ganga. Christur hlaut ad deya og lyda/ uppa þad ad Fyrerheited fullkonnad yrde/ og vier sky ldum þar af þeckia þa brennande Elsku/ sem Gud hefur til vor hafe/ Rom. 8. Ja þa hiartgronu Elsku JEsu Christi/ af Pist. til Ebr. 5. Enn hann hlaut og so aptur Upprysa og innganga j syna Dyrd/ so ad sa Spadomur eirnenn uppfylltest/ og vier j vorre Trw styrkter og stadfester yrdum/ hu errar Grundvøllur/ er Upprisann Herrans Chri sti fra Daudū/ af 1 Pistl. til Corinth. 15. Cap. Hafe nu Christur hloted þañeñ ad lyda / og inn ganga so j syna Dyrd/ þa þurfum vier oss ei ann ars ad vænta/ enn vier hliotum og so fyrer marg ar Motlætingar jnn ad ganga j Guds Ryke/ af Po stulañа Gierninga B. 14. Cap.

## 3. Greinen er um Openberun Herrans Christi fyrer þessum tveimur Læresveinum.

TOkum oss hier wt af eina AMINNING/ ad vier hier med gaumgiæfelega grundū/ styr kium og stadfestum þa Høfudgrein vorrar Trw ar/ þar vier jatum ad Christur sie a þridia De ige fra Daudum upprisenn/ Ja/ med þeim sama Lykama/ sem a Krossenum var Deyddur og j Gr øfena nidurlagdur. Bader þesser Læresveinar voru j fyrstunne helldur tuylsamer og trwar vei ker. Enn nu þegar Christur hafde wtlagt fyrer þeim Ritningarnar og opnad þeirra Augu / ad þeir þeckeu hañ/ sau hans Personu og fyrra sam añ Lykama/ þa urdu þeir trwarstyrkver og full visser um hans Upprisu. Þess vegna skulum vier ei helldur efa Upprisuna Herrans Christi/ helldur

helldur gledia oſſ vid hana med brennande hiartt ans Aſt/ ſem þeſſer Lærefveinar giørdu/og hugga oſſ vid þa viſſu Von/ad JEſus mune oſſ etterneñ uppvekia a ſijdaſta Deige/ j þeſſu voru ſama Lijk ama/ og jſleida oſſ j ſijna Dyrd/ þa vier erū For klaarader og an allra Lyta / af Piſtl. til Phil. 3. Cap. Hier vid hefur ſig huggad ſa gode Job i ſijnum ſtoru Raunum og Motlæte/ ſem leſa maa i hans Bok 19. Cap. Eg veit (ſeiger hañ) mitt Endurlauſnare lifer/ og þad hañ mun hier epter uppvekia mig af Jørdeñe/ og eg mun ſijdar meir umgiefaſt med þeſſu mijnu Hørunde / og eg mun ſiaa Gud j mijnu Hollde/ þañ hinn ſama mun eg ſiaa fyrer mig/ og mijn Augu munu lijta hañ/ og ecke neirn añarlegur.

## Pridia Dag j Pijnſkum/ Gudſpialled ſkrifar Luc. 24. Cap.

Þañ Tijma. Þa Læreſueinarner voru nu eñ ad tala um þetta/ ſtie JEſus midt j mille þeirra/og ſagde til þeirra. Fridur ſie med ydur. Eñ þeir ſkielfduſt og urdu hrædder/ og meintu ad þeir ſæe Anda nockurn. Og hañ ſagde til þeirra. Huar fyrer ſkielfeſt þier / og þui koma ſlijker Þankar j ydar Hiortu? Siaed mijn ar Hendur og mijnar Fætur/ ad eg em þetta

sialfur. Þreifed a mier og skoded / þuiad Ande hefur ei Holld og Bein/ so sem þier siaed mig hafa. Og þa hañ sagde þetta/ syndi hañ þeim Hendur og Fætur. Og er þeir trudu eñ ecke fyrer Fagnadar saker/ z undrande pad / pa sagde hann til þeirra. Hafe þier nockud matarlegt? Og þeir lög du fyrer hañ sticke af steyktum Fiske / og Hunangs Seim/ z hñ tok þad/ og at fyrer þeirra Augum. Og hañ sagde til þeirra. Þetta eru þau Ord/ huor eg talade til ydar/ þa eg var eñ nu hia ydur / þui þad hlaut allt ad fullkomnast/sem af mier er skrifad i Moysis Logmale/ og Spamaña Bokum og Psalmum. Þa opnade hañ þeirra Hug skot/ so ad þeir skildu Ritningarnar/og sag de til þeirra. So er þad skrifad/og so hör iade Christo ad lijda/ z upp ad rijsa a þrid ia Deige fra Daudum/ og predikast lata j sijnu Nafne/ Ydran og Fyrergiefning Sy ndaña a medal allra Þioda/ uppheflande j Jerusalem/ og þier erud Vottar allra þes sara Hluta.

Þetta Evangelium hefur þriar Greiner.

Su fyrsta

## Su fyrsta er Openberan Herrans Christi fyrer Lærefueinunum.

TOkum hier wt af eina AMINNING / ad þegar vier gyrnustum þa gledeyku Tilkomu og nalægd vors DROTTens JESu Christi/ad vier tølum þa um hañ/ og høfum Christelegar og nytsamlegar Samrædur/ eins og Lærefueinarner hier giørdu. Þegar Meñ j Samkomum vita ei um añad ad tala/eñ Avirdingar Yfervalldsins/ um Yfersion Rieñedomsins/ og Breste añara Erlegra Maña/ z þ sama ecke af Medaumkan/edur Gyrnd ad Hialpa þeim þar fra/ helldur af Last gyrugu Giede/þa þarf Madur ecke ad þeinkia/ad Herrañ Christur mune þar nalægur vera med siñe Nad. Hvør ed soddañ skadsamlegt onytiu Skraf og Bakdoma so hatar/ad hñ a sijdasta Deige/vill dæma þuilijka Meñ þar f/so sem hñ lioslega seig er hia Matth. 12. Af hvøriu þui faafeingu Orde sem Meñerner tala / munu þeir Reikningskap giøra a ytsta Dome. Af þijnum Ordum muntu riettlætast / og af þijnum Ordum muntu fordæmast.

## 2. Greineñ er Bevijsing Christi ad hañ sie sañarlega Vpprisenn.

TAke hier af eina HVGGVN øll skielfd og istødulaus Hiørtu/allar veikttwadar z Efabl andnar Christnar Mañeskiur / hvørsu Huggunar samlega vor giæskurijke Endurlausnare/ avarpar þær seigiande / Fridur sie med ydur. Hvørsu nae kuæmlega hañ tekur fra þeim allañ Otta og Skie lfing/ og styrker þeirra veiku Trw/synande þeim

ſijnar gegnum grafnar Hendur og Fætur/ vertu
þeſſ vegna hughrauſt/ þu hrædda og ſkielfda Hiar
ta. Ef þijn Trwa er ſtødd j ſtorre Tuylſeme
og kañ ei ſo ſnøgt ad koma til riettra/ þa vert þu
hughrauſt/ hier er JEſus ſem þig mun ſtyrkia/
og aptur vidrietta/ ſo ſem þar ſtendur af hønum
ſkrifad hia Eſa. 42. Þañ brakada Reyreñ mun
hañ ecke j ſundurbriota/ og þañ rijkande Lyknueik
mun hañ ecke wtſløckva. Og j Pſalmenum 145.
DROTTeñ ſtidur alla þa ſem vid Falle er bwed/
og reiſer upp alla þa ſem nidur eru ſlegner. Hall
tu þier ad eins faſt vid hans Almættis Ord/ og
hans Nadar Teikn/ þau heiløgu Sacramenta/ ꝫ
bid Daglega um Aukning þiñr Trwr mz Lære
ſueinunum/ Luc. 17. ſo mun hañ þig vel tilrei
da/ ſtyrkia og ſtøduguñ giøra/ af 1. Piſtle S. Pet
urs 5. Cap.

## 3. Greineñ er j Prekud Paaſka Predikun Chriſti.

TOkum oſſ hier wt af eina AMINNING/
ad vier næſt þui Nya Teſtamentenu j ſtærſtu
Virding høfum / elſkum/ koſtgiæfelega leſum/
og ſtadfaſtlega trwum Bokum Moyſis/ Spaamañ
ins Davids/ og añara Guds Maña / j þui gam
la Teſtamentenu / med þui ad Herrann Chriſtur
ſialfur hefur þar wt af ſamañteked/ dreiged ꝫ gi
ørt ſijnar merkelegar Paaſka Predikaner/ ſem hañ
framſette bæde fyrer þeim tueimur Læreſueinū/
ſem geingu til Emaus/ og nu fyrer Poſtulunum/
bevijſande þar med / ad Moyſis og Spaamañaña
Bækurnar/ ſem og Pſalmar Davids ſieu Viſſelega
þad rietta ꝫ ſanna Guds Ord/ og ad oſſ verde þar

inne fyrer

inne fyrer Sioner ſett/ þeſſ alvijſa Guds Rad/ Vil-
le/ Meining og Alycktan um Endurlauſn mann-
legs Kyns/ huørs vegna Herrann Chriſtur epter ſij-
na Vppriſu fra Daudum/ villde ecke nockurn ny-
ann Lærdom innſetia/ helldur blyfa vid þann/ ſem
Moyſes/ Spamennerner og David (huørier af hønum
høfdu ſpaad) i ſijnum Bokum epterlated høf-
du/ til huørs Lærdoms oſſ verdur vijſad i ødru
Sendebrefe Peturs 1. Cap. og 2. Timoth. 3.

## I. Sunnudag epter Paſka/ (Dominica Qvaſimodo geniti,) Evangelium Ioh. 20.

OG ad Kuøllde þeſſ ſama Þuottdags/ þa ed Læreſueinarner voru ſamankomner ad lucktum Dyrum/ fyrer hrædſlu ſaker vid Gydinga/ kom JEſus þar/ og ſtood i mided/ og ſagde til þeirra/ Fridur ſie med ydur. Og þa hann ſagde þetta/ ſijnde hann þeim Hendurnar og ſijna Sijdu. Enn Læriſueinarner glødduſt vid/ ad þeir ſau Herrann. JEſus ſagde þa enn aptur til þeirra/ Fridur ſie med ydur. Lijka ſem Faderenn ſende mig/ ſo ſende eg ydur. Enn ſem hann ſagde þetta/ blies hann a þa/ og ſagde til þeirra/ medtake þi-

er heilagañ Anda/ huorium hellst þier þyr ergiefed Syndernar / þeim eru þær fyrer gieþnar. Og huorium hellst þier aptur hallded þær/ þa eru þær þeim apturhalldnar. Eñ Thomas einn aþ þeim tolþ/sem kalladist Tvybure/var eige nꝫ þm þa JEsus kom. Eñ hiner adrer Læresueinarner sǫgdu til hans/ vier hoþum sied Herrañ. Eñ hñ sagde til þeirra. Nema ad eg siae Naglaþoreñ j hans Hondum/ ꝫ ad eg lꝫte miñ Fyngur j Naglaþoreñ/og eg legge miña Hond j hans Sijdu / þa trwe eg ecke. Og epter atta Daga /voru eñ aptur hans Læresveinar þar jñe/og Thomas med þeim þa kom JEsus ad lycktum Dyrum/ stod j mided og sagde. Fridur sie med ydur. Sijdan sagde hñ til Thomam/riettu þiñ Fyngur hingad/ꝫ skoda mijnar Hendur/lypt upp þiñe Hende/ og legg j mijna Sijdu/ og vert ecke vantrwadur/helldꝫ trwadur. Thomas suarade og sagde til hans/ DROTTenn miñ ꝫ Gud minn. JEsus sagde til hñs. Aþ þui þu sast mig Thoma / trwder þu. Sæler eru þeir sem ecke sia og trwa þo.

Morg

Morg onnur Teikn giorde JEsus j Aug syn sina Lærefueina/ huør ad eige eru skrif ud j þessare Bok. En þetta er þui skrifad so ad þier trwed/ þad JEsus sie Christus Sonur Guds/og ad þier so trwader/ hefdud Lijfed j hans Nafne.

### Tuær eru Greiner þessa Gudspiallz.

### Su fyrre er um Openberan Herrans Christi fyrer Lærefueinunum.

HJer høfum vier eina ægiæta HUGGUN. Er þad ecke harla huggunarsamlegt/ sem Herrann Christur enn nu seiger til sinna Lærefueina Fridur sie med ydur. Enn þesse Fridar Osk snerter ecke alleinasta Lærefueinana/ helldur nyktur hun einneg oss vid/ þui fyrer sigursæla Upprisu JEsu Christi/ høfum vier Frid/ yfer oss vid Gud a Himnum/ huørs Reide elldur nu er wtslecktur/ huør nu hef ur til vor þanka FRidarens/enn ecke Pyninnar/ af Jerem. Spadoms B. 29. Cap. Vier høf um Frid j oss/ j vorre Samuitsku/ epter þui Herrann Christur hefur wtskafed þa Handskrift sem j mote oss var/ af Pistl. til Colos. 2. Cap. Vier høfum Frid under oss/ med þui sa er nu lagdur under Fætur vora Andurlausnara/ sem oss Dag og Nætt fyrer Gude ásakade/ af Opinberingar Bok 12 Cap. Er þad ecke og so næsta Huggunarsam legt/ ad Herrann Christur syner z fram ryslar/ syn um breysku og fráfollnu/ enn nu Hrdrande Lære sueinunum/og jafnvel þeim vantrwada Thoma syn

ar giegnumgrafnar Hendur/med hvørium hañ haf de so strangt Erfide framed þeirra vegna/ z syna giegnum stungnu Sydu/ huar wt af hans æstryka Hiarta Blod hafde runed/ so ad þeir j æstrydu Syndareñar/skylldu miñast sijns fullnadar Betal ings z Forþienustu. Eins vill hann eirneñ hug ga oss j vorum Sælar Raunum og æstrydu/ med Mædarsamre Framvøgstungu siña Handa/ j hvørium hañ hefur oss teiknad med sijnu saklausa og dyr mæta Blode/ af Spædoms B. Es. 49. Og mz siñe opnudu Sydu/so vier þar jñe megum rosam lega huyla og ugglauser vera fyrer øllum Asokn um/ so sem j einu traustu og øruggu Vyge.

## 2. Greineñ er um Jñsetning þess hæverduga Predikunar Embættis.

Tökum oss hier wt af LÆRDOMI/um Verdug leika þess Heilaga Predikunar Embættis/þad eru ad søñu lijtelmotleger og fyrer Verølldunne audvirdeleger Meñ/ sem Gud brwkar j predikun ar Embættenu/huad ad er hans gømul Vysa og Vane/ad wtvelia ecke marga Spekinga epter Holld enu/ecke marga Vollduga/ecke marga Edalborna/ helldur þad sem audvirdelegt og forachtanlegt er fyrer Heimenum/ af 1. Sendebrefe til Corinth. 1. Cap. Ei ad sijdur seiger Herrañ Christur hi er/ad soddañ Meñ/skule framkuæma sitt Erinde z vera j siñ Stad/ huørs vegna þr verda z so kall ader Christi Legatar z Sendebodar/ 2. Cor. 5.

Nu ef eirn Legat edur Sendebode/ er eins hæfrachtande sem hans Herra/ j þui enu sama sem hañ/hans vegna frambér/og wtrettcr. So

eiga og eirnen goder Lærefedur og Christi Þienar ar j wertettingu þeirra Embættis/eins hartt ad actast/sem sialfur Christur / þuiad sialfur Gud talar og annuñ fyrer þa/so sem þar stendur j 2. Sendebrefe til Corinth. 5. So og eirnen seig er Herrañ Christur Luc. 10. Huør ydur heyrer/ sa heyrer mig/ z huør ydur forsmaaer/ sa forsmaa er mig. Ja vissulega mun Gud ei obegnt verda lata Spott og Forackt sina Þienara/ j þeirra Embættis wertettingu/huad nu er (þui midur) hellst obtyckanlegt a þessum Døgum.

# II. Sunnudag epter Paaska/ (Misericordias) Evangelium Ioh. 10.

Þañ Tijma. JEsus sagde til Gydingaña. Eg em godur Hyrder. God ur Hyrder giefur sitt Lijf wt fyrer sijna Saude/ eñ Leigulideñ/ z hañ sem ecke er Hyrder/huørs ad Sauderner eru ecke eig eñleger/nær hañ sier Vlfeñ koma/ þa yfer giefur hañ Saudena/ og flyr j burt. Og Vlfureñ grijpur Saudena/ og sundurdreyf er þeim. Eñ Leiguliðeñ flyr/ af þui hañ er Leygulide/og giæter ecke Saudaña. Eg em godz Hyrder/og eg þecke mijna Saude/ og eg þeckest af mijnum/ so sem ad Faderen

eñ þecker mig/ z eg þecke Fødureñ / og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg hefe og adra Saude/ sem eige eru af þessu Saudahwse/ þa byriar mier og hier til ad leida/ og þeir munu heyra mijna Rodd. Og þar mun verda eitt Saudahws og eirn Hyrder.

Þetta 6. Evangelium hefur þriar Greiner inne ad hallda.

## Su fyrsta er um þañ goda Hyrder.

TØkum hier wt af eirn LÆRDOM/ um þa storu Trwfeste vors Herra JEsu Christi/ hu or sig hier kallar eirn godañ Hyrder/ viliande þar med audsyna sijna breñande Elsku og Hiartaþel til vor. Eirn Hyrder hlytur 1. margt ad reina og wtstanda. 2. ad forsvara sijna Saude fyrer Vlfenum. 3. Ad vakta þa og fæda.

Þetta þrent er og so ad finna hia vorum Endurlausnara. Þui hefur hñ ecke vorra vegna margvijslega Mædu wtstaded? Var ecke hans hingad Fæding i Fatækt z ørbyrgd? Hefur ecke allur hñs hiervistar Tijme aumkunarlegr vered? Alls Mañkynsins Syndabyrde og Þunge var lagdur uppa hañ/ af Esaiæ 53. Cap. Hefur hañ ecke verndad oss og vardveitt? Huad opt hefur þad helvijtska greniandi Leon og Sælna Mordinge / fyrer sijn Verkfære/ leitast vid ad fordiarfa oss og eilldungis uppsvelgia? Eñ vor trwfaste Hyrder hefur varnad hønum þess og hønum fravisad/ so vier meigū

jata

jarta med Jeremia af Harmagratsins 3. Capit. Godgyrne DROTTens er þad/ad vier erum ecke ølldungis uegiørder / hans Myskunseme hefur eii Engvañ Enda. Hefur hñ ecke leidt oss fyrer siñ Godañ Anda/so ad Diøfullen med Verølldeñe hefþ ur oss ei afvega leidt? Hefur hann ecke Fædt oss og forsorgad/ med sijnu saluhialplega Orde og heim H. Sacramentis? Giefur hñ oss ecke eñ nu j Dag yfeyrliotanlega þessa Fæduna?

Æ miñ Herra JESu/ lattu vor ofaklæt z gle imskufull Hiørtu/ fo hier vid karnest/ og þa vier høfum kannast þar vid/ þier audmiuklega j sannre Hlydne þacka/fyrer þijna storu Trwfeste/ Myskunseme og Velgiørder.

## 2. Greineñ er um Leigulidañ.

TOkum oss hier wt af eirn LÆRDOM/huar af Madur skule þeckia/ huørt eirn Lærare ed ur Kyrkiu þienare/sie riettur Sæalna Hyrder edur Herpløgeñ Leigulide. Stunde hañ alleinasta þar til/ad þær Laun og Betaling (huørneñ sem hñs Kieñingu hia hans Tilheyrendum geingur vel eda jlla) So er hañ vissulega ecke annad/ eñ eirn skad samlegur Leigulide/sem meir metur og elskar sijnar jnteckter/ eñ siña tilterwadra Sauda gagn/ og Nytsemd/ lyka ef eirn Kieñefader ag Kyrkiu þienare strykur j burtu Naudsynlalaust fra siñe Hiø rd/ þa er hañ so sem Herrañ Christur hier seiger eirn Leigulide. Nu kañ einhuør ad spyria/ huørt eirn Kieñefader meige þa ølldungis ecke vyk la burt fra sinne Hiørd? Huar uppa suarast/ ad eiñ Offokn vegna huørrar eirn Lærare edur Pre dikare vill fraviyfkia/er tueñslags, Stundum

verdur

verdur heill Christelegr Søpnudur opsoktur. Og ep so er/ þa skal eirn Kieñemadur / edur Kyrkiu þienare/ huørge vykia pra þeim hreina Evangelij Lærdome/og synum Søpnude/og jafnvel þo hañ yrde þar pyrer høggvin j Þusund Stycke/edur til Osku brendur. Stundum verdur eirn Kienne madur alleina opsoktur pyrer syna Personu/ og þa ma hañ vel vykia burt og forda sier/ og a hañs Søpnudur þa ad veita hønum alla mægulega Hialp og Adstod/ so hñ kuñe ad umplya þa Hættu og Fær/sem hñ er j komeñ/pyrer Sakleyse/og sin riettrar Ordsakar. So plude Elias j 1. Bok Kong. 19. Cap. Og Postuleñ Pall j Postulaña Giørning. 9. Cap.

## 3. Greineñ er um Samansapn pra añarlegu Saudanna j eina Hiord.

Tøkum oss hier ut ap eina AMINNINGU/ til skylldugs þacklætis/ad DROTTeñ JEsus hepur oss auma Heidingia (sem hier merkiast pyrer añarlega Saude) læted komast j Samþielag skap siñar riettu Kyrkiu/ svo sem Postuleñ Pall merkelega þar um talar j Pistl. til Ephes. 2. C. Og S. Petur 1. Pistl. 2. Cap. Æ lætum oss þui sier til/ ad vier blyfuñ j þuilykre Nad Guds/ huad vissulega skie mun ep vier so sem hylgesamer Sauder / heyrum Rødd vors ædsta Hyrders JEsu Christi/og hlydum eirneñ velmeintum Aminn ingum hans Underhyrdara/sem eru kostgiæpner z trwlynder Kieñepedur/ og Predikarar.

# III. Suñudag epter Paaska/

(Jubilate)

(Iubilate) Evangelium Ioh. 16.

I Þann Tijma/ sagde JESus til sijna Læresueina. Innañ lijtels Tijma munud þier ecke sia mig/ z þa eñ jñañ lijtels Tijma munud þier eñ sia mig aptur/ þui eg fer til Fødur sins. Þa søgdu sumer af hans Lærefuein um sijn a mille. Quad er þ/ ad hñ seiger til vor/ jñañ lijtels Tijma munud þier ecke sia mig/og þa eñ jñañ lijtels Tijma munud þier eñ sia mig aptur/ þui eg fer til Fød ursins? Þa søgdu þeir / Quad er þad hañ seiger oss jñañ lijtels Tijma? Vier vitum ecke huad hañ seiger. Eñ JESus þor merkte ad þeir villdu spyria hañ ad/og sag de til þeirra. Þier spyried ad þessu ydar a mille/þad eg sagda ydur/jñañ lijtels Tijma munud þier ecke sia mig/og þa aptur jñañ lytels Tijma munud þier sia mig. Sañlega sañlega seige eg ydur / þier munud syta og græta/ eñ Heimureñ mun þagna/ og þier munud hryggver verda/eñ ydar Hrygd skal snwast j Fognud. Ein Kona nær hun sk bæda/ þa hefur hun Hrygd/ þuiad hennar

Stund

Stund er komeñ: Eñ þa hun hefur Barned fædt/ miñest hun ecke þess Harmkuælis fyrer Fagnadar Saker / þuiad Madur er j Heimeñ boreñ. Og þier hafed nu ad søñu Hrygd/ eñ eg skal sia ydur aptur / og ydart Hiarta skal fagna/ og ydvarn Føgnud skal eingeñ af ydur taka. A þeim Deige munu þier mig og einskis spyria.

Þetta 6. Evangelium heþur tuo Parta.

## Sa 1. er Fyrersøgn Pijnuñar Christi.

TOkum oss hier eirn LÆRDOM/ um þa owtskyranlegu Elsku Herrans Christi/ sem hañ heþur til vor haþt/ og eñ nu heþur. Sijna beysku Pijnu og bitrañ Dauda/ kallar hañ hier eina litla Stund/ edur lijten Tyma/ þar hann þo Dag og Nott var Pijndur/ Kvaleñ og Kramdur / þegar su breñande Reide Guds lꜹ a hønū/ nidurþrykte hønum/ og wtpressade Bloddropana aþ hñs allra heilagasta Lykama/ þa hañ vard ad lijda jmislega Eymd og Anaud/ aþ þeim Blodþyrstu og Myskunarlausu Gydingum/ og þeirra vondu Þrælum/ sem þeir kuñu þrekast upp ad þeinkia. Er þetta þa lijted? Vissulega er þad j sialþu sier ecke lijted/ helldur miked/ jꜹ yþer mꜹta miked. Enn huør er þa Ordsøkeñ/ huar þyrer Herrañ Christur kallar slijkt lijted/ edur lijteñ Tyma? Hans breñande Elska til vor/ er su Ordsøk/ huar þyrer hønum heþur þott øll sijn Plaga og Pijna vera so

sem

ſem lytell Tyme. Svo ſem heim goda Jacob Forþødur hunduſt hau ſiø Ar/ ſem han þionade Laban/fyrer ſyne kiæru Rachel/ ecke meir eñ ſo ſem þaier Dagar være/ vegna heirrar Elſku ſem han hafde til heñar/ ſem leſa ma j 1. Bok Moſ. 29. Cap. So hefur vorum Endurlauſnara þott øll ſu Hørmung/øll ſu Eymd og Armæda ſem yfer han kom/ſo ſem lytell Tyme/vegna heirrar heitu Elsku ſem han hafde til vor.

## 2. Parturen er Fyrerſegn/ um Hørmung Lærefueinanna.

TOkum hier ut af eirn LÆRDOM um Tilſtand þromra Chriſteña Maña hier j Heime/ þ er nu ecke heldur eñ Poſtulaña Tilſtand fordū Daga/ huørier voru hryggver/ ſytcu og grietu/ eins hliota aller heir ſem gudrækelega lifa villa j Christo JESu Ofſokn ad lyda/2. Timoth.3.& Poſtulaña Giørninga B. 14. Pvi huorn þañ ſem DROTTEñ elſkar/ þañ agar hā fødurlega med allſkins Motgange/ af Piſtlenum til Hebre. 09/ 12. Capit. Og huør ſa ſem vill vera JESu Chriſti Læreſueirn/ ſa blytur ad taka ſiñ Kroſſ uppa ſig/ ſeiger Herrañ Chriſtr hia Matth. 10. Pui Gud hefur einum og ſierhuørium ødur eñ hañ verdur fæddur/ ſiñ Kroſſ fyrerhugad og niðurſkamtad/ ſumum meire/ſumum miñe/eins og hañ ſier huørn med þurfa. Eñ þo ſem ødur varer ſoddañ Hrygd og Graitur ecke allt jafnt/ helldur mun hañ ſnwaſt j Glede/ ſo gode heilage Ande/ſtyrker goda Kroſſberara/og beryſar heim ad Hørmungarnar kuña ecke: ad mynka þeirra

Gude

Guds Barna Riett/ af Pistl. til Rom. 8. Cap. Og ad Motlætingar þessara Tijma/ sieu ecke verd ar þeirrar Dyrdar sem sydar vid oss mun open ber verda/ so sem þar stendur j sama Pistle.

# IV. Sunudag epter Paaska/ (Dominica Cantate) Evangel. Ioh. 16.

Þann Tijma. JEsus sagde til sinna Lærefueina. Nu fer eg til Hans sem mig sende/ z eingen af ydur spyr mig ad/ huort fer þu? Helldur af þui ad eg tal ade þetta til ydar/ þa uppfyllteft ydar Hiar ta af Hrygd. Enn eg seige ydur þo sannleik enn/ ad þad batar ydur ad eg fare hiedann. Þui ef ad eg fer ei j burt hiedann/ þa kiem ur eige Huggarenn til ydar. Enn ef eg fer j burt hiedann/ mun eg senda hann til ydar. Og þa ed hann kiemur/ straffar hann Heim enn um Syndena / og um Riettlæted/ og um Domenn. Vm Syndena/ af þui þeir trwdu ecke a mig. Enn um Riettlæted/ þuiad eg fer til Fodursins/ z epter þad siaie þier mig ecke. Enn um Domenn/ þuiad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe enn nu

margt

margt ad seigia ydur/ en̄ þier kun̄ed ecke ad sin̄e ad grijpa þ. En̄ nær ed sa San̄leiksins Anden̄ kiemur/ þa mun han̄ kien̄a ydur allan̄ San̄leik/ þuiad han̄ talar ecke af sialfs um sier/ helldur huad han̄ heyrde/ þad talar han̄/ og huad epterkomande er/ þad kun̄giorer hn̄ ydur. Han̄ same mun og auglysa mig/ þuiad af mijnu mun han̄ þad taka og kunngiora ydur. Allt huad hellst Faderen̄ hefur/ þad er mitt. Þar fyrer sagda eg ydur/ ad af mijnu mun han̄ þad taka/ og kun̄ giora ydur.

Þetta Heilaga Evangelium hefur tuær Greiner inne ad hallda.

## Su fyrre er Huggun su/ sem Herran̄ Christur giefur sijnum stridande og Sorgbitnum Lærisueinum.

Tokum oss hier wt af eina AMINNING/ þegar vier røtum fyrer Hrygd og Hørmung/ ad giøra þa ecke eins og Lærisueinarner hier giøre du/ huørier alleinasta ælitu Hørmungena sialfa/ og Motlæted/ og saau huørke nie grenslududst framar þar epter. So skulum vier ecke giøra/ helldur skulum vier sia epter Endalycktene/ og þeirre Nytseme sem vier kun̄um þar wt af ad hafa/ og þeim kia so til Ordan̄a Herrans Christi/ þar hn̄ seiger/



þad batar

þad bakar ydur. Ef einn edur añar vor a med al verdur Siukur eda Veikur/ þa þeinke hañ til Ordanna Christi/ þad bakar ydur/ edur þad er þier gott/ þui þad a ad vera nytsemd Veikleikans/ad þu þeinker/huørnen þu heþur brwkad þiña fyrre Heilbrygde/vegna huørra Synda þu haf er ratad i þeñañ Veikleika/ so ad þu þui helldur muñest/ad þacka Gude jñelega fyrer Heilsuna/gieþe hañ þier hana aptur/z ad þu þar epter varest allar Synder/ so sem Ezechias giørde Es. 38. Hliote einn edur añar fyrer Sakleyse og an sijns Tilverknadar/ad lijda Tion edur Tøpun a Heidre og Gotze/þa þeinke hañ til Ordaña Christi/ÞAD BATar þig. Jaa/ þeinke hann vel þar uppa/ ad Gud tekur þar med/fra hønum Ordsøk til ad syndga/ og giører hønum þetta auma Lijf / og alla Jardneska Vellysting þui leidare/ so hñ upp hefie þañ sama sijdar meir til eilyfrar Vegsemdar

## 2. Greinen er um Embætte H. Anda.

TOkum oss hier eina LÆRDOM/um þa storu Lynkind z Vorkunseme vors Endurlausnara ad hañ vill ei meir segia j þad sinn sijnum Lærisueinum / eñ þeir kuñu ad bera. Þad hid sama giører hañ eñ nu vid oss/ hañ setur oss ei vandare Lectiu fyrer/ eñ vier gietũ lært og numed. Þar fyrer ef einn ratar j nokurn Vanda/þa bidie hñ Gud kostgiæfelega/ og reide sig þar uppa/ad Gud mune Hialpa hans veikum Mætte/ þui hñ þecker vora Sköpun/ hønum til hugar kiemur/ þad vier erum dupt/ af Psalm. 103.

5. Suñu

# V. Sunnudag epter Paſka / (Vocem Iucunditatis) Evang. Ioh. 16.

SIESus ſagde til ſiña Læreſu eina. Sañlega ſañlega ſeige eg ydur/ Huørs þier bidied Fodureñ j miñu Nafne/ þad mun hañ giefa ydur. Hingad til hafe þier einſkis bed ed j miñu Nafne. Bidied/þa munud þier medtaka/ ſo ad ydar Fognudur ſie fullkom legur. Þetta hef eg talad j Ordskuidum til ydar. Sa Tijme kiemur / ad eg tala ecke leingur j Ordskuidum til ydar/ helldur mun eg kuñgiora ydur openberlega af miñ um Fodur. A þeim Deige munud þier og bidia j miñu Nafne. Og eige ſeige eg yd ur ad eg mune bidia Fodureñ fyrer ydur/ Þuiad ſialfur Fadereñ elſkar ydur / af þui þier elſked mig og trwed þad / ad eg ſie af Gude wtgeingeñ. Eg em af Fodurnum wtgeingeñ/ og komeñ j þeñañ Heim. Eg fyrerlæt og aptur þeñañ Heim / og fer til Fodurſins. Og hans Læreſueinar ſeigia þa til hans. Sie/ nu talar þu berlega/og

mæler ongva Ordskuidu. Nu vitum vier ad þu veitst alla Hlute / og þu þarft eige ad nockur spyrie þig. Fyrer þad truum vier ad þu siert af Gude wtgeingen.

Þetta H. Evangelium hefur tuær Greiner.

## 1. Er Ræda Herrans Christi vid Lære suemana.

TOkum oss hier ut af eirn LÆRDOM / um Bænena / sem ad er sa stærste Rykdomur z Her seme Christena Mana / þui þar med kan Madur øllu til leidar ad koma sem hann vill.

Fyrer Bænena ødladest Elias þ j dyrtijdene / ad Hrafnar bæru hønum Braud z Kiøt Kuølld og Morgna / af 1. Bok Kong. 17. Capit. Fyrer Bænena ødladist hann þad / ad þar rignde / og rignde ecke yfer Jørdena / Jacob 5. Fyrer Bænena ødladest Loth þad / ad Ellds og Brenne steins Regned snerte ecke Staden Zoar / 1. Bok Mos. 19. Cap. Og huer kan ad upptelia øll Dæme þeirra sem fyrer Bænena hafa storum Hlutum til leidar komed?

## 2. Greinen er um Andsuar Læresueinana.

TOkum oss hier wt af eina AMINNING / ad kanast vid vorn stora Veikleika j Christen domenum. Med huad mørgum omotsegianlegum Beuijsingum hafde Herran Christur nu j nockur Ar / audsynt synum Læresueinum syna Alvitsku z Guddom / en hier koma þeir fyrst fram z segia / Nu vitum vier ad þu veitst alla Hlute / og

truum

trwum þui/ad þu ſiert aþ Gude wtgeingenn. En þeſſe þeirra Trw vacade þo ecke leinge / þui ſkømmu þar epter þegar Chriſtur var Fangadur aþ ſm Ogudlegu Gydingū. Pa ſor S. Petur þrædelega/ad hn̄ þeckte ecke þn̄ Galileara. Hin er adrer Lærefueinarner þlivdu burt/og þorlietu ſin̄ Herra j Ovina Høndū. Lyka eirnen̄ epter hn̄s Vppriſu/ kunnu þeir ecke ad komaſt til riectta um hans Guddom og Vppriſu fra Daudum / huørs vegna þeir tveir ſem geingu til Emaus/høfdu ſier legt Samtal ſijn a mille um Herran̄ Chriſtum/og þad ſkied var j Jeruſalem/ad huørtu ſiaa maa og merkia/ad þeir haþa þa gleimt ſiñe þyrre Trwar Jatningu. Fyrer þui huør han̄ lærur ſier ſikia/ þad hn̄ ſtande/giepe ſa vel gaum ad/ ad hn̄ þalle ecke/ epter Raadleggingu Poſtulans Pals 1. Sen debreþe til Corinth. 10. Cap.

---

# A Vppſtigningar Dag/

## Evangelium Marc. 16. C.

Þan̄ Tijma. Enn ſeinaſt er þeir Elleþu ſatu til Bords / opennberade han̄ ſig/ og awijtade þeirra Van trw og Hiartans Hardud/ þad þeir hoþdu eige trwad þeim/ ſem han̄ hoþdu ſied vppriſenn. Og han̄ ſagde til þeirra/ þared ut um allan̄ Heimen̄/ og prediked Evangeliū

allre Skiepnu. Huør hañ trwer og verdur skyrdur/ skal Holpeñ verda. Eñ huør eige trwer/ sa skal fordæmdur verda. Eñ Teik neñ er þeim munu fylgia sem trwa / eru þesse. J mijnu Nafne skulu þeir Diofla wtreka/ nyar Tungur tala/ Høggorma upp taka. Og ef þeir drecka nockud Banvænlegt/ þa skal þ þeim ecke granda. Yfer Siuka munu þeir Hendur leggia / og þa mun þeim batna. Og epter þad ed DRD TTeñ JESus hafde talad vid þa/ vard hañ vppnumeñ til Himens/ og situr til Gu ds hægre Handar. Eñ þeir geingu wt og predikudu allstadar DRDTtne samverkanda/ og Orded styrkianda/ med epterfylgiande Teiknum.

Þetta Heilaga Evangelium hefur þriaar Greiner j sier ad hallda.

Su I. er um Vtsending Postulañа um allañ Heim til ad kieña og Predika Evangelium øllum Þiodum.

DOkum oss hier wt af þa HVGGVN/ad Chr isti Ryke heyrer ei alleinasta til Gydingum/ edur nockrum fæeinum/helldur øllum Mønnum/ huørium Herrañ Christur befalar ad predika sitt Nadarrijka Evangelium/og Styra þa j NAfne

Søduro

Fööurs og Sonar/ z Heilags Anda/ Matth. 28. Hugrta Guds owtſkyranlega Raad og Myſk unſeme ællum byriar med Hlartans þacklæte ad æ ſaňaſt læta/ og einkum oſſ/ er bwum under þeſſu Ytſta Heimſins Skaute/vier ſm̃ fordum Daga vor um Heidnar Pioder/ fyrer utaň Chriſtum/ fram ande og fyrer utaň Borgarretct Iſraels/ og framande fra Teſtamente Fyrerheiteſins/ af Piſtlenum til Ephes. 2. Capitula. Vier erum nu af ſierlegre Naad Guds kallader j Sam felagſkap Guds Chriſtne / og til Hlutteckningar allra JEſu Chriſti Velgiørninga.

## 2. er um Furduverkeň þeirra Trwdu.

TOkum hier wt af eirn LÆRDOM / huad vier eigũ nu a þeſſũ Døgũ ad hallda um Furdu verkeň. Fyrſt ſkulum vier vita/ ad þa Chriſtil leg Kyrkia fyrſt hofſt og byriadeſt/voru Furdu verken næſta naudſynleg. Þui uppa þ ad Triwen kyńe ad vaxa og þroaſt/þa hlaut hun ad ſtyrkiaſt og næraſt med Kraptaverkunum/ lyka eins z þa eitt Jurt er pløntud/verdur hun ad yfereuſaſt og vøkvaſt med Vatne/allt til þeſſ/ þad ſieſt/ad hun ſie Jørdeńe jnńlyfud. Eň þegar hun er noglega grodurſett/ þa er hun ei optar vøkvud. Nu med þui a þeſſum Tijmum er ecke framar predikad fyrer Vantrwudum Heidingium / helldur fyrer Chriſtnum Møńum/ ſem grundvallader eru j þet ere riettu Trw/ þa þarf ei Furduverkaňa vid/ein kum þar Guds Ord er j ſialfu ſier fullt af Kra ptaverkum/ og Furduverkum.

## 3. Greineň er um Uppſtigningena vors

## Drottens JEsu Christi.

TOkum oss hier wr aþ eina HUGGUNN/ móte Ogn og Ræde allra vorra Ovina/ med þui ad vor DROttenn JEsus Christur er uppstijgenn til Himna/ situr til hægre Handar Guds / og rædur og stiornar øllum Hlutum/ so hann legge alla syna og vora Ovine under Fætur sier/ aþ Psalm 110. So vier meigum nu ockader seigia / aþ Esa. 8. Cap. So vered nu aller hier Lyder og reñed þo und añ/ heyre hier þad aller þier sem i fiærlægum Løndum erud/ herklæded ydur og flyed þo unda / bued ydur w: / vered þo a Flotta reknir/ ælyktid eina Rꝛdagiørd/ og þar verde þo ekkert aþ/ haþed Samtøk/ enn þ hafe þo øngvann Scad/ þui hier er Immanuel. Þesse vor himneske Immanuel sitr til Fødursins hægre Handar og bidur ꝼ oss/ Rom 8. Og med þeim H. Lærefødur Bernhardo seigium vier/ Huar fyrer skal eg hrædast? Huar ꝼ skal eg tuijla um Ꝛꝛæd og Myskunseme Guds mijns? fyrst eg veit fyrer víst / ad mitt Hollld situr til Fødursins hægre Handar.

# VI. Sunnudag epter Paaska/
## (Dominica Exaudi) Evang Ioh. 15. ℥ 16.

Á Þeim Tijma. JEsus sagde til sin na Lærisueina. Enn þa ed sa Hugg areñ kiemur/ huorn eg mun senda ydur aþ mijnum Fødur/ sem ad er Sañleik

sins Ande

sins Ande/ huor aþ Fodurnum frāmgeing ut/ hañ mun bera Vitne aþ mier/ og þier munud mier Vitne bera/ þuiad þier hafed i fra Vpphaþe hia mier vered. Eñ þet ta tala eg þui til ydar/ so ad þier hneyxlest ecke. Þinad þeir munu þorboda ydur/ og sa Tijme kiemur/ ad huor hañ Lijflætur ydur/ sa meinar sig ad giora Gude þægt Verk. Og þetta giora þeir ydur/ aþ þui þeir þeckia huorke Fodureñ nie mig. Enn þetta tala eg þui til ydar/ ad nær ed su Stund kiemur/ ad þier miñest þess/ ad eg sagda ydur þad. Eñ þetta sagda eg ydur eige j Vpphafe/ þui eg var hia ydur.

Þetta H. Evangelium skiptest j tuo Parta.

Sa 1. er um Fyrerheit heilags Anda.

TOkum hier ut aþ til underwijsingar þeirrar heiløgu Hugtasuñu Hamyrdar eirn LÆRDom um Personu og Embætte þess heilaga Anda. Ad sa gode H. Ande sie ein Persona/ jaa ein adgreind Persona þra Fødursins og Sonarens Personu/ er augliost aþ þessu heilaga Evangelio/ þar Herrañ Christur seiger/ Jeg SONVR Enn mun sende ydur HVGGARANN aþ FODVRNVM/ eñ þesse HVggareñ er eirn Ande/ (sem hann verdur kalladur) edur ein andleg Vera/ jaa ad sønu/

eirn Ande aþ Gude 1. Corinth. 2. Og sialþur sañur Gud/aþ Postulaña Giørninga Bok 5. C. Herrañ Christur seiger hier/ad þesse H. Ande/þr añgange aþ Fødurnum. Eñ med þui hañ verdur og so kalladur ANde GUdsSONarens j Pistl. til Gal. 4. Og eirn Ande hans Muñs 2. Tess. 2. Þa er augliost/ad H. Ande þramgange eirnen aþ Synenum/ so sem kient verdur j Christelegre Bysrkiu og vier jatum j Credo. Eñ hueʀnen þui sie vared/ ad H. Ande þramgange aþ Fødurnum og Synenum/kañ eingeñ Madur j þessu daudlega Holldi þullkomlega ad skilia edur utþyda.

Embætte þess H. Anda verdur oss synt og þyrer Sioner sett 1. J þui ad hann verdur kalladur HUGGare. J Hebrd Textanū stendur eitt Ord sem ecke alleinasta merker eirn HUGGara/helldur og eirnen eirn Hialparmañ/ edur Tulk. Huad mattugur og krøptugur HUGGare hñ sie/þar þr ad reina/ sem j sijnum stærstū Hørmungum og Fr eystingum þiña til hñs Huggunar/ so sem David vottar j Psalm. 94. seigiande/ Marga Hugar hrelling haþda eg j mijnu Hiarta/ eñ þijnar Hugganer þa glødda mijna Sælu. Huilijkur Hialpare og Tulkur/ edur Fortals Madur/ hann sie/ þinna þau ørþiædu Hiørtu/ sem vegna Hræd slu og Neydar kuña ei meir ad tala/ þyrer huørium hañ bidur Gud med oumrædelegre Andvarpan aþ Pistl. til Rom. 8 Cap. Þar næst verdur oss synt hans Embætte/ þar hañ verdur kalladur Ande Sañleiksins/ecke alleinasta þess vegna ad hñ veit og skilur allañ Sañleika/ helldur eirnin vegna þess ad hñ leider oss j allañ Sañleik/þyrer riett

añ St. lning Guds Ords/ og underviſſun trwlynd
fra Guds Ords Pienara/ Joh. 16.

2. Parturenn er Fyrerſogn Opſoknanna.

TOkum hier wt af eina VIDVORVN/ ad þeir
kia ei ſtrax þa vier ſiaum nockrum aumlega å
illa ganga / ad hann ſie framar ødrum/ eirn ſtor
Syndare/ og hafe þad ſierdeilislega med ſijnum
vondum Verkum forſkulldad. Herrañ Chri
ſtur giefur oſſ hier langtum ødruviſſe Ordſøk/ og
ſyner þ/ad þño kiæru Viner ſieu ſer allra aumuſt u
å veſæluſtu j þeſſare Ver#llð/ miñunſt huad hañ
ſagde til ſiña Læreſueina/ þa þeir ſpurdu/ huørt
ſa ſem blindur var fæddur/ edur hans Forelldrar
hefdu med ſijnum Syndum Ordſøk vered til þeſſ
ad hñ ſkyllde blindur fædaſt? Huar til Chriſtur
ſuarade/ ad huørke þeir nie hñ framar ødrum hef
du þar til Ordſøk vered/ med nockrum ſierlegum
Syndum / helldur være þad ſkied/uppa þad/ ad
Guds Verk ſkyllde openbert verda/ Joh. 9. So
ſem hañ eirnen ſagde/ um þa j Siloha/ Luc. 13.
Meine þier ad þeir atian a huøria Turnenñ j Silo
frapade og drap/ hafe ſakadre vered framar øll
um Mønnum ſem til Jeruſalem byggia? Eg ſeige
ydur Ney. Þeſſ vegna þegar vier ſiaum edur
heyrum ſagt fra aumum og veſælum Mañeſkium
ſa þeinkium ſo. O Herra Gud/ þeſſa Eymd og
Armædu hefde eg myklu helldur forſkulldad eñ
þeſſer. Eñ þad hefur ſkier ſo ſockaaſt ad þeim
ſkia þeſſar Skiepnur/ enn vægia mier. Æ lat
mig kañaſt hier vid / med ſanure Yoran og verk
þeſſum aumū Manneſkium Lyknſamur med þiñe
Fødurlegre Nad og Myſkun.

A Huørt

# A HVITASVNNV Hatijd/ Evangelium Ioh. 14. Cap.

Og IEsus sagde til sijna Lære Sueina. Huør hañ elskar mig/ sa mun vardveita mijn Ord/og Fader minn mun elska hañ / og



til hans munum vid koma / og hia honum Vistarveru giora. Eñ huor hann elskar mig eige/ sa vardveiter ecke mijn Ord. Og pad Ordeð sim pier heyrdud/er ecke mitt/hell dur Fodursins þess sein mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur / a medañ eg var hia ydur. Eñ Huggareñ sem er hinn heilage Ande / pañ er miñ Fader mun senda ydur j

myñu

mijnu Nafne/ hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute/og aminna ydur a allt þad/sem eg sagda ydur. Minn Frid læt eg hia ydur/miñ Frid gief eg ydur/ eige so sem Heimureñ giefur þa giefe eg ydur. Ydart Hiarta hryggest ecke nie skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur / Eg fer burt og kiem aptur til ydar. Ef ad þier elskudud mig/ þa gleddust þier vid þad/ad eg sagda ydur/ ad eg fer til Fødursins / þuiad Fadereñ er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad/ad ur fyrre eñ þad skier/ so ad þier trydud þui þa er þ være skied. Hiedañ j fra mun eg ecke margt tala vid ydur/ Þuiad þessa Heims Høfdinge kiemr/ og m̃ mig hefur hañ ekkert. Helldur so ad Heimureñ þecke þad eg elska Fødureñ / og þad eg giøre so sem Fadereñ hefur mier boded.

Þetta 5. Evangelium hefur þriar Greín er jnne ad hallda.

Su fyrsta er um adskilianlega Menn j þeim synelega Søfnude Guds.

TOkum hier ut af eirn LÆRDOM/ huørnen Madur eige ad profa og riettelega ad þeckia sitt riett Hußtasuñu Skola Barn/og JESu Christi Elsk-

risti Elskara / nesnelega þar aþ / þegar nockur ecke alleinasta giarnsamlega heyrer Guds Ord/hell dur z so Hegdar sier þar epter kostgiæfelega j sin um Liþnade og Framferde. O Huad margt minnu med soddann mote þiňast riett Huytasuñu Børn/ og Christi Elskendur? J Guds Or de stendur so / ad þu skuler ecke vanbrwka Nafn DROTTens Guds þijns/ 2. Bok Mos. 20. Eñ huad marger Unger og Gamler þiňast þeir/ sem eru næsta hneygder til hrædelegrar Gudlǫstunar/ med Blote og Bañe/ med vanbrwkan Guds Naf ns/og vondum Muneydum? J Guds Orde stendur so/ ad Madr skule ecke alleinasta heyra Gu ds Orda Predikun/helldur og so giøra þar epter aþ Jacobs Pistle 1. Cap. Eñ huad marger eru þr sem ad søñu lættast heyra Predikunena og Guds Ord/eñ giøra þar þo ecke epter? J Guds Orde stendur/ ad vier skulum elska huør añan inn byrdis/ Joh. 15. Eñ huad marger eru þeir / hia huørium allur brodurlegur Kiærleikur er wtslok eñ/og miñe Medaumkan haþa med sijnũ naudstad da Nauunga/ eñ Tyrkiar og Heidingiar? Mun slijkt heita ad hallda og geyma JEsu Christi Ord? Kunna nockud slijker Menn riettelega ad kallast Huijtasunnu Skola Børn / edur JEsu Christi Elskendur? Ecke verdur þui vel heim komed. Eñ þr sem heyra og vardveita Guds Ord og audsyna þar med sijna Elsku / sem þeir haþa til Guds. Þeir haþa sier hier þa nærkuæma HUGGUN ad taka/ ad Gud Himneskur Fader elskar þa/ eñ þañ sem Gud elskar/ haþa aller hel lager Einglar kiærañ/ og gieþa giætur ad hønum/

eins sem

eins sem elskulegu Guds Barne. Kættum oss þui ecke Hrædast Heimen/ Daudann og Diøfulenn/ þui huad kuńa þeir oss ad giøra / ef Gud elskar oss? So sem þær Personur sem elskast jnnbyrdis/ eru giarnań til samans/ so mun einneń sú H. Guddoom sins Þrenning byggia og bwa hia þeim/ sem elska Gud/ og hafa þar sitt Heimele/ þar med einnenn þeirra Bæ og Bustade fra øllu jllu vernda z vardveita.

2. Greineń er um Nytseme Guds Heilaga Ords/ z Huggunar Embætte H. Anda.

Tökum oss hier ut af þa HVGGVN/ ad sa verd ugt H. Ande er vor Huggare / og Kærremeyst are/ sem oss kieńer allań Sańleik/ og miñer oss a allt þad osser Naudsynlegt til eilyfrar Sæluhialpar.

Þegar Noe var j Örkeńe/ þa kom ein Dwfa til hans fliugande / med Oliu Laufblad j Nefenu/ audsynande þar med/ ad Syndafloded / hefde sig nu lækad/ og Eykurnar tækiu til ad blomgast aptur, Þetta merkte Huggunar Embætte heilags Anda/ huør ed j Skyrnenne Herrans Christi byrt est j Dwfu Lyking/ og utbyter sijnum Huggünum fyrer Munn trulyndra Kænnefedra og Predikara/ huoriar Huggan.r ad eru krøptugar og styrkuar/ eins sem H. Ande verdur kalladur/ ANDE/ Kraptur og Styrkleike/ Esa. 11.

3. Greineń er Hughreysting Lærefueinaña/ þar Herrań Christur seiger ad þeirra Hiortu skule ecke hrædast nie skielfast.

Tokum

TOkum oss aptur hier wt af eina HUGGUN/ ad lyka sem Dauden Herrans Christi var ecke annad/ en hans heimfør til sins Himneska Fødurs/ so mun og so vor Daude um sijder verda / ecke annad en Burtfør fra þessare stundlegu Eymd/ til eilijfrar oendanlegrar Gledc og Fagnadar.

# Annann Dag Huitasunnu/

## Evangelium Ioh. 3. Cap.

Þann Tijma. JEsus sagde til Nicodemum. So elskade Gud Heimenn/ ad hann gaf wt sinn Eingietenn Son/ til þess ad aller þeir sem a hann trwa / fyrer farest ecke/ helldur ad þeir hafe eilijft Lijf. Þui eige sende Gud Son sinn j Heimenn/ ad hann fyrerdæmde Heimenn/ helldur ad Heimurenn frelsist fyrer hann. Huor a hann trwer fyrerdæmest ei. Enn huor hann trwer eige hann er nu þegar fyrerdæmdur/ þui hn̄ trwer ei a Nafn eingietens Guds Sonar. Enn þesse er Domurenn/ ad Liosed kom j Heimenn / og Mennerner elskudu meir Myrkred enn Liosed/ þuiad þeirra Verk voru vond. Huor sem illa giorer/ hann hatar Liosed/ hann kiemur og eige til Liossens/ ad eige straffest hans

affest hans Verk. Eñ huor sem Sannleikeñ giorer/ hañ kiemur til Liossens / svo hans Giörder verde kuñar/ þuiad þær eru j Gude giördar.

Þetta H. Evangelium hefur tuær Greiner.

Su 1. er um Guds Elsku og Velgiorninga.

LOkum hier ut af eina magnata LVGGVM. Ef Freystingar koma/og seigia þier j þynu H/ arta/ so og so hefur þu Syndgast / so hefur þu forþienad Guds Reide/ og sydasta Dom / þier til Skrerdæmingar / so hefur Gud þier utskufad og utelukt fra Mandarenar Hlutdeilld/so muntu verda allskins plagum hladeñ. So er þui var ed/ad þu medal so margra Þusunda hneyxlañleg ra Veralldar Barna/munt ei kuña ad umflya eö lyka Syrerdæming. Hier uppa skalltu svara med sama Ordkorne/ So/og seigia/ So hefur Gud elskad Heimenn. Ja allann Heimeñ og allar og sierhuørtar Mañeskiur/ Ad hañ hefur giefed siñ eingietëñ Son fyrer þær/ so ad aller þeir sem a hañ trwa/fyrerfarest ecke/ helldur hafe eilyft Lyf. Hafe hañ nu ecke hyrmt synum elsku legum Syne/helldur giefed hañ wt fyrer oss alla/ þui skyllde hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum? af Pistl. til Rom. 8. Hugrneñ skyllde so giæskurykur Gud kuña ad forlæta oss / edur fra sier skufa? Og eñ þo hñ stundum/so sem yfer hylie nockud syna Elsku/ þa veit eg þo fyrer vyst ad hañ þeinker til myn/þui hañ hefur giefed mier

L Lyfed/

Lijsed/ og margt gott/ og hans Vmsion vardveit er min Andardrætt. Þañeñ huggade sig Job j sijnum stærstu Mañraunum / sem lesa mä j hans Bok 10. Cap.

2. Greineñ er um Veralldareñar Opacklæte/

TOkum oss hier vt af eina VJDVORVN/ ad vier forsomum ecke Naadareñar Tyma/ medañ hañ varer/ og hølldum ei aafram mot Froañlega j Vantru og vondum Myrkrañs Verkum med Belials Børnum / helldur førum og flijtum oss til þeirrar heilsusamlegu Riettlætesins Solar JESV um Christum / huør ed giarnañ upplysa vill alla Meñ/ sem koma j þeñañ Heim/ Joh. 1. J dag/ j Dag/ ef þier heyred hans Rødd (j heilgu Evangelio) so forherded ecke ydar Hiörtu/ aminner David Psalm. 95.

# A Pridia Dag Huitasunnu/
## Gudspialled Joh. 10. Cap.

Þañ Tijma. JEsus sagde til Phariseaña/ Sañlega sañlega seige eg ydur. Huør hañ geingur ei jñ um Dyrnar j Saudahwsid/ helldur stijg ur hañ jñ med ødrum hætte/ sa er Þiofur og Spillvirke. Eñ sa sem geingur jñ um Dyrnar / hañ er Hyrder Saudaña / fyrer honum lykur Dyravørdureñ upp/ z Saud erner hey

erner heyra hans Rodd. Og hañ kallar
sijna Saude med Nafne/og leider þa wt/ e
þa hañ heffur sijna Saude wtleated/ geing-
ur hañ framme fyrer þeim / og Sauderner
fylgia honum epter / þuiad þeir heyra hũs
Rodd. Eñ odrum añarlegum fylgia þeir
ecke epter / helldur flya þeir fra honum/
þuiad þeir kienna eige annarlega Rodd.
Þessa Malsgrein talade JEsus til þeir
ra/eñ þeir vissu eige huad hñ sagde þeim.
Þa sagde JEsus enn aptur til þeirra.
Sañlega/sañlega seige eg ydur / ad eg em
Dyr Saudaña. Og aller huorier hellst
sem fyrer mier komu/ þeir voru Þiofar og
Spillvirkiar/og Sauderner hlijddu þeim ei
ge. Eg em Dyrnar/ ef nockur geingur jñ
um mig/ sa mun frelsast/ hañ mun og gan-
ga wt og jñ/ hañ skal og finna sitt Fodur.
Eñ Þiofureñ kiemur ei til añars eñ hann
stele/ drepe og fordiarfe. Eg eg em kom
eñ til þess / ad þeir hafe Lijf og fulla Gn-
ægd.

Þetta 4. Evangelium hefur tuo Parta.

Sa fyrre er um Saudahusid.

Tökum hier wt af þan LÆRDOM/ ad þeg ar Herran Christur hefur vitad þæra synum Tilheyrendum til Hiarta/ nockud um sitt Embætte og Velgiørninga/ so vel sem um Hattalag edur Tilstand sins Naudarykis/ þa hefur han optast þuilykt giørt med sierlegum Epterlykingum af al mennelegum Jardneskum Hlutum wrdregnum/ svo sem hann hier wtmaalar Phariseurum og Skrift lærdum/ þeirra sinksamlegt og hyrdulaust Hyrda ara Embætte/ og þad sama fyrer eina Epterlyk ing af Saudahwse Christelegrar Kyrkiu / huat sie þeir hendludu so sem Piofar z Mordingar. Þuilyk Epterdæme hefr hn giarnan brukad/uppa þad/ ad Mēn skylldu þeckia þad/ ad hn være eirn Lærefader af Gude komen/ Joh. 3. Vm soddan Art og vysu/ j Epterlykingum ad tala/var fyrer um spaad/j Psalm. 78. Huad ad skiede hellst þess vegna/ad þeir einfølldu/ þui fyrr og betur kyñu ad skilia þad kient var/ þegar þad være þeim med þuilykum Epterlykingum / af almennelegum og al kuñugum Hlutum wtmaalad z fyrer Sioner sett/ ad þr kiæmust so fyrer Jhugan Jardneskra Hluta til glögglegre Skilnings Guds Rykis/og Himneskra Leyndardoma.

## 2. Parturenn er wtlegging þessarar Epterlykingar.

Tökum hier wt af LÆRDOM/huørnen var ed sie Hattalage Christelegrar Kyrkiu hier a Jørdune/ huørre samlykt verdur vid eitt Sauda hws. Þui 1. So sem eitt Saudahws kan op enberlega ad siast og þeckiast/so er Christeleg Kyr kia (fyrer utan Opsoknartymann) eirn synelegur

Søfn

Søþnudur/ þeirra er kallader eru aþ Gudi/ huør icke Guds Ord medtaka/ og þau H. Sacramenta brwka epter sialþs Christi Skiptan z Innsetningu.

2. So sem ad Sauderner j einu Saudahwse/ eru þryer og ohulter þyrer Ovedre z Grimleika Ulþsins/ so erum vier og so j Christelegre Kyrkiu ohulter og hættulauser þyrer þeirre hrædelegu Reide sm yþer þa Ogudlegu mun koma/ aþ Ps. 11. Og þyrer þeim helvijtska Ulþenum sem Saudena burthriþsar / og þeim sundurdreiþer/ Joh. 10.

3. So sem eitt Saudahws er audvirdelegt ad siaa/ so heþur og so Christeleg Kyrkia / þyrer Ver Ölldene migg lijted Alit og Fegurd/ Luc. 12.

4. So sem eitt Saudahws heþur Dyr/ So er sialþur Christur Dyr Christelegrar Kyrkiu/ þyrer huørn vier j hana Inngøngum/ og sijdar meir jnn j eilijþt Lijþ/ Joh. 14.

5. So sem eitt Saudahws hefur eirn Dyravørd so heþur og Christeleg Kyrkia sin Dyravørd/ sem er H. Ande/ huør ed upplykur/ Mønnunum sem Sæluholpner vilia verda/ Dyrum Gudlegrar þeckingar/ hia Joh. 16. og j Pistl. til Col. 4.

6. So sem j einu Saudahwse eru spakar og meinlausar Saudakyndur/ og stundum lyka oeyrd arsamar Geytur og Haþrar/ so er eirnen ad þinna j Christelegre Kyrkiu / goda og þroma Christna Menn / sem og eirnenn huerbrotna z Ogudlega Skalka/ huørier a sijdasta Deige munu þraaskiliast/ z hiner til hægre/ en þesser til vinstre Handar sett er verda/ z þr Riettlætu j eilijþt Lijþ/ en þr Rangslætu j eilijþar Kvaler jnngannga/ Matth. 25.

# A TRINITATIS Sun
nudag/ ecur N. Prettingar Natttijd / Gudspialled hia Johañem 3. Cap.

Þañ Tijma. Var þar eirn Mad ur af Phariseunum / Nicodemus ad Nafne/ eirn Nopdinge Gydinga/ hañ kom til JESu a Natt aptre/og sagde til hans. Rabbi/ vier vit um ad þu ert eirn Lærefader komeñ af Gude/ Þui eingeñ giefur giort þau Teikn sem þu giorer/ utañ Gud sie med honum. JEsus suarade og sagde til hans / Sannlega sañlgea seige eg þier/ þad eingeñ nema hñ sa ad nyu verdur endurfæddur/ þær ad siaa Guds Rijke. Nicodemus sagde til hans. Huorneñ maa Madureñ endurfædast þa hañ er gamall? Huort giefur hañ horfed aptur j sinnar Modurkuid / og fædst svo ad nyu? JESus suarade. Sañlega sañlega seige eg þier / nema þad ad einhuør verde endurfæddur wt af Vatne z Anda/ þa kañ hañ ecke jñ ad ganga j Guds Rijke. Huad af Hollde er fædt/þad er Holld. Eñ huad

af And

aþ Andanum er fædt/ þad er Ande. Vnd
rast þu ecke/ þo ad eg segda þier / ad ydur
byriade ad nyu ad endurfædast. Vindurenn
blæs huar ed hañ vill / og þu heyrer hans
Þyt/ eñ eige veitst þu huadañ hañ kiemur
eda huort hañ þer. So og eru aller þeir
sem wt aþ Andanū eru endurfæder. Ni-
codemus suarade og sagde til hans. Huorn
eñ maa þetta skie? JEsus suarade hon-
um/ og sagde. Ertu eirn Meystare j Js
rael/ og veitst ecke þetta? Sannlega/ sañ-
lega seige eg þier/ ad vier seigjum þad vier
vitum/ og Vitnum huad vier sied hofum/
og vorn Vitnisburd medtake þier ecke.
Fyrst þier trwed ecke / þa eg seige ydur aþ
Jardneskum Hlutum/ Huorneñ munud þier
þa meiga trwa/ eþ ad eg segda ydur aþ him
neskum Hlutum? Og eingeñ mun upp stijga
til Himens/ vtañ sa sem ofañ stie af Him
ne/ Mañsins Sonur sa sem er a Himne.
Og so sem Moyses upphof Hoggormenn
a Eydemørkenne/ lijka so byriar Mañsins
Syne upp ad hefiast/ so ad aller þeir sem a
hañ trwa/ fortapest eige/ helldur ad þeir
haþe eilijþt Lijþ.

Þetta

Þetta heilaga Evangelium sunduredlist j þriar Parta.

## Sa 1. er um Spurning Nicodemi/ og Andsuar Christi þar uppa.

ToKum oss hier wt af eina VJDVORVN/ ad eingen Madur huad mykils hattar han vera kañ/ edur af mørgum Arum/ skamest syn ad læra nockud / einkum j þeim Eyrnum/ sem snerta vorn Christeñdom. Var ecke Nicodemus eirn gamall Madur og Ollbungur medal Gydinga? Var hñ ecke eirn Lærdur Madur? Ey ad sydur gieck hñ til Herrans Christum/ til ad þa betre Vnderviisun af hønum. Þui eigum vier aller ad epterbyglia hans Dæme/ med þui Gud um syder mun heimta af oss eirn skarpañ Reikningskap/ huørnenn vier høyrũ þæt oss j Nyt eirn og añan hentugleika til ad þeckia þañ heilsusamlega Sañleika/ og ad auk ast z eplast j vorũ Christenndom. Verde hier nu Predikad/ ad þu skuler varast vidurstiggelega Otukt/ Høls z Blot/ og adrar Synder/ z þu ville ecke slykū hlyda/ edur af þijnum Syndum lata/ þa ertu ecke Nicodemo lykur / og munt ecke med soddañ þijnum Trassighettum sia Guds Ryke.

## 2. Parturen er um Tuijlseme Nicodemi wt af Suaren Christi.

ToKum oss hier wt af eirn LÆRDOM/ um þad mykla Myrkur vors Skilnings / einkum þad vidvykur Trwareñar Eyrnũ. Herrañ Christur hafde talad vid Nicodemum/ um þa aud legu Endurfæding / eñ slykt skilur hañ og heimt

